WIKIPEDIA

# Chichewa

**Chichewa** (eða **Cinyanja**) er tungumál í Bantúmálafjölskyldunni og jafnframt opinbert tungumál í Malaví. Málið er einnig talað í Sambíu, Mósambík og Simbabve. Forskeytið *chi-* (einnig skrifað *ci-*) merkir *tungumál* og er því oft talað um **Chewa** eða **Nyanja**. **Chingoni** (*Ngoni*) og **Chikunda** (*Kunda*) eru mállýskur þess.

| Chichewa<br>*Chicheŵa* | |
|---|---|
| **Málsvæði** | Malaví, Mósambík, Sambía og Simbabve |
| **Heimshluti** | Mið-Afríka |
| **Fjöldi málhafa** | 9,3 milljónir |
| **Sæti** | ekki meðal 100 efstu |
| **Opinber staða** | |
| **Opinbert tungumál** | Malaví |
| **Stýrt af** | *Ekki vitað* |
| **Tungumálakóðar** | |
| **ISO 639-1** | ny |
| **ISO 639-2** | nya |
| **SIL** | nya |

**ATH:** Þessi grein gæti innihaldið hljóðfræðitákn úr alþjóðlega hljóðstafrófinu í Unicode.

## Dreifing

Chichewa er opinbert tungumál í Malaví ásamt því að það er talað í nokkrum ættbálkum í austurhluta Sambíu. Í Mósambík er málið talað í Tété og Niassa-héröðunum og í Simbabve er tungan þriðja útbreiddust í landinu, á eftir Shona og Ndebele.

Bæði Biblían og Kóraninn hafa verið þýdd á Chichewa.

## Saga

Málið kemur frá veldi Marava, sem var uppi á 15. til 18. öld og náði yfir allt Malaví og hluta Mósambík og Sambíu. Eftir að veldið splundraðist hélt tungumálið velli og kristnir trúboðar tóku m.a. tunguna þegar þeir komu inn á svæðið. Fyrsta málfræðibókin á Chewa var skrifuð uppúr 1880 af Alexander nokkrum.

## Tengill

- Wikipedia á Chichewa (https://ny.wikipedia.org/)

**Nígerkongótungumál**

Abanjommál | Adelska | Akanmál | Anló | Atabaskamál | Chichewa | Svahílí